# Axel

kvæði

eptir

# Esaias Tegnér.

Steingrímur Thorsteinson

íslenzkaði.

KAUPMANNAHÖFN.

Utgefandi: Páll Sveinsson.

1857.

# AXEL,

KVÆÐI EPTIR

# ESAIAS TEGNÉR.

---

STEINGRÍMUR THORSTEINSON

ÍSLENZKAÐI.

---

KAUPMANNAHÖFN.

ÚTGEFANDI PÁLL SVEINSSON.

PRENTAÐ HJÁ S. L. MÖLLER.

1857.

Hin forna öldin er mjer kær,
Öldin Karlunga hugum stóru,
Er löst sjer eigi vissu og voru
Glaðir sem dyggðar geðró vær.
En bragar norður- ljós um -lönd
Ljóminn hennar við sjónbaugs rönd,
Og bruna lít eg heima háa
Með belti gul og feldi bláa;
Við aptanroðann eg það sje,
Til yðar horfi eg beygð með knje,
Kappar í Sköglar skæðri þröng
Með skinnakyrtla og sverðin löng!

---

# AXEL.

---

Einn af Karlungum kappa eg sá
Og kenndi á mínum bernsku aldri.
Hann stóð gamall á grundu kaldri:
Sigurmark reisugt rústum á;
Allt silfur hans á höfði skein.
Er hundrað ára fannir krýndu,
Og ennis örin sama sýndu.
Og rúnir birta á bautastein.
Örsnauður hann að örbyrgð þó
Einsog handgenginn glaður brosti,
Og bjó að hörðum hermanns kosti
Í þorpi einu í þykkum skóg.
Tvo átti hann góða gripi þá,
— Gjörvallan heiminn virti hann minna —

Ritningu helga, og hjörinn stinna
Með kærstu nafni konungs á.
Stórvirki hilmis herjum kunna,
Er hljóma vítt sem ljómar sunna.
Sem örninn víða um veröld flaug.
Þau geymdust öll í öldungs minni.
Sem vopn og gripir góðir inni,
Djúpt undir grund í grænum haug.
Ó! er hann hermdi háskaför
Með herjaföður drengjum blá,
Hversu rjettist úr honum þá.
Og brunnu augun björt og snör?
En orð hans ljet sem syngja sverð,
Er sagði hann jöfurs hreystiferð.
Opt fram á nótt hann unun jók,
Innandi það, er fyrrum skjeði.
Og nær sem Karl hann nefna rjeði.
Örslitinn hatt hann ofan tók.
Hugfanginn stóð eg hnje hans við.
Því hvergi lengra þá eg náði,

Og barn eg hugmynd þessa þáði
Um eð herfræga hetjulið,
Mörg hefur óljós minning dvalizt
Mínum síðan í hug og falizt,
Einsog sverðlilju freðið fræ,
Fólgið djúpt undir vetrar snæ.

---

Hinn gamli er nár, — í grafar dymmu
Geymist hann vært, en þennan óð
Nam eg af honum, hlýði þjóð!
Og harmi Axels forlög grimmu.
Dauf eru ljóð mín hinu hjá,
Sem hermdi enn gamli maður frá.

---

Hugstór í Bender hilmir þreyði,
Hans voru þegar lönd í eyði,
Athlægi frægð hans áður rík,
Ættþjóð hans, særðum kappa lík,
Af hrolli dauðans bliknuð barðist,
Bakvið skjöldinn á hnjánum varðist,
Og vonin horfin lýði lands
Lifði ei nema í brjósti hans,
Forlaga bókar blöðum að
Bylvindar ljeku, hristust grundir,
Hann stóð sem turninn hveldur undir
Hrynjandi báli í brenndum stað,
Einsog marmara mynd á gröf,
Sem meginbjarg er stöðvar höf.

---

Einn aptan hann við Axel sagði:
"Annastu þetta brjef"! og lagði

Brjefið í hendur hans og kvað:
"Heim til Svíþjóðar berðu það!
Dag- og náttfari röskt þú ríðir,
Ráðinu brjefið fáðu um síðir,
Fylgi þjer guð og flýt þjer nú,
Fjöllunum gömlu heilsa þú!"

---

Glaður varð Axel út að ríða,
Óðar hann saumar brjefið niður.
Við Holofsin, síðu hilmis viður
Faðir hans hnje í valinn víða;
Og þá var hernum Axel í,
Uppfæddist þar við járna gný.
Fríðastur sýnum sem á foldu
Norðurheims stundum alast enn
Hávaxnir grannir glæsimenn,
Sem grenitrjen á Svíamoldu.
Einsog sólbjartur himin — hans
Enn hermannlegi ennis svipur.

Svo frjáls og laus við flærðar vipur,
Alvöru sýndi hins sanna manns,
Og augun voru unglings hrein
Upp sem til himins gerð að sjá,
Með glöðu trausti guð sinn á.
Því vammalaus ei veit sjer mein.
En til að líta á illsku niður,
Öll því að dyggðin spor hans styður.
Hann gekk í konungs kappa lið.
Kunnur að ströngum hreysti sið.
Sjö voru bræður, fögur fæð,
Sem í Karls vagni stjörnur standa
Um strindi nætur síblikanda,
Kaldar á vetrarhimins hæð.
Þeir báru skírslu skálma og loga.
Kristið víkinga fjelag frítt,
Fornköppum líkt, er geystust vítt
Á drekum yfir dymma voga.
Aldrei þeir sváfu á beði blund,
En breiddum feldi lágt á jörðu,

Í vetrarbyl og veðri hörðu,
Vært sem á rósum grónni grund.
þeir gátu skeifur sundur snúið,
Svo varð ei kalt, að hefðu búið
þeir við varðelda varma ból,
þeir kyntu heitum hnöttum böðvar,
Háranðum, einsog þegar stöðvar
Dagrás á vetri dreyrrauð sól.
Eiðbundu lög — í orra voða
Einn fyrir sjö að hörfa mátti.
En við heiptmögum horfa átti
Brjóst, og enginn á bak þeim skoða.
þyngst var samt lagt á þeirra líf,
þeir máttu ei ást til meyjar snúa.
Mikið var undir slíku að búa,
Fyrr enn að Karl sjer veldi víf.
Hversu sem brunnu brúna ljós,
Og brosti munnur einsog rós,
Hversu iðandi brjóstin blíðu
Bifðust svanhvít á sprundi fríðu,

Sköpuðu mátti ei skeika parið,
Skálminni höfðu þeir ástir svarið.

---

Nú hleypir Axel fáki fljótt,
Um foldu ríður dag og nótt.
Á mærum Ukräns í myrkvið þá
Mörg sjer hann glitra vopnin blá,
Laufar og kesjur leiptra í kring,
Læstur er hann í slegnum hring,
"Sunnan úr Bender brjef þú ber,
Af baki! og það fáðu mjer,
Ella þú deyr!" hans sænska svar
Með sverði blóðgu skrifað var,
Því dólgur bleikur bröllti um svörð
Og blómguð skipti litum jörð.
Nú styður baki upp við eik
Axel í grimmum járna leik.
Hvar sem hann þungum hjó með fal,
Heiptmögur særður fjell í val.

Trúlega enti hann unnið heit,
Einn móti sjö — nei! meira hann mátti
Móti tuttugu leik hann átti,
Svo Hrólfi Kraka brandur beit.
Og vonarlaus hann vo til nauða,
Hann vildi ei berjast einn í dauða.
Með dreyrgum vörum segja sár,
Að senn hann verði fölur nár,
Æðar við hjarta heli frosnar,
Holdgróin mund við sverðið losnar,
Og fyrir sjónum sortnar skjótt.
Svífur yfir hin langa nótt.

---

Þá gullu horn í grænum lundum
Og gnýr af fákum, mönnum, hundum.
Hart sendist dýr af hræðslu óðri,
Hleypa veiðimenn út úr rjóðri,
En fram úr öllum fleygðist þó
Á fannahvítum borin jó,

Og sólbjört fyrir sveif í skyndi.
Sem þegar kastar hvirfilvindi,
Skjaldmærin rjóð um götur grunda.
Á grænum veiðibúning sprunda.
Ræningja lið á flótta fer,
Fælist jórinn er lík hann sjer.
Standandi hún niður stökk á jörð,
þar lá Axel sem eikin háa,
Ofan sliguð á viðinn smáa.
þá reiðir byljir rífa svörð;
þar lá hann fagur, busti blóð.
Og bogin yfir honum stóð
María, sem ljós á Latmoss hjalla
Ljet sig Diana niður falla.
Og ódauðlega einsog lysti
Endymion í svefni kysti.
Sofanda þessum þó ei fegri —
þreyðan af veru guðdómlegri.
Lífsmark þó eptir lítið enn
Leyndist í barmi sundurskotnum.

Og af trjágreinum ofanbrotnum
Börur í skyndi bjuggu menn,
Og á þeim báru bleikan ná
Til borgar vífs, er þar var hjá.

---

Hún sat við Axels höfðalag,
Og hrærð til blíðrar meðaumkvunar
Á honum festi augu munar,
Vakandi nótt og nýtan dag.
Sem fögur rós á Grikkja grundu,
Guða liðinna minnis dal,
Sig vindur upp að Herkúls hrundu
Marmara líki í laufasal. —
Loks vaknar hann af löngum dvala,
Leit sig í kring og fór að tala,
En augun störðu æðistrylld,
Áður svo stillt og hreystimild:
"Hvar er jeg? hví hjá mjer er mey?
Meyja sjóngaman því er ei

Maður Karls tólfta, tárin þín
Tæpt skulu lauga sárin mín.
Á vetrarbrautar björtu landi
Býr minn faðir og veit minn eið.
Ó sýnum fagra seiðmey leið,
Sigraðu mig ei vondi andi!
Hvar er beltið og brjef er sendi
Buðlungur ritað eigin hendi?
Hvast rjeð míns föður benljár bíta.
Í blóði roðinn Moskóvíta,
Sem fyrir ljáinn leggjast strá,
Lítið eg skeindist einnig þá,
Vígglaður þar eg verjast rjeð,
Vildag Karl hefði til mín sjeð.
Til Hólma skal brjef eg hef ei frið.
Þar hef eg lagt minn drengskap við.
Dýr er hver stund og skynda skal", —
Skilur ei neinn það óráðs tal,
Og málmþings boði höfuð hneigir
Á hægan svæfilsdún og þegir.

---

Og lengi stríddu líf og hel,
Unz lífsins sigur ungling vakti,
Og alla burtu hættu hrakti,
Fyrir sjer mey hann virt gat vel.
Skynjandi hann sjúkur sá með gleði,
Sakleysis engill stóð hjá beði
Eigi var glóbjart hennar hár,
Nje augun blá með blíðu veika,
Sem bleikra drósa, í draum er reika
Með sjúkum hug um æskuár,
Hún var austræn og hárið langa
Hrafnsvart lagðist með rjóðum vanga,
Þar lokkar yfir undu ljúfir,
Einsog svartnætti á rósum grúfir.
Fegurðar prýddi svipur sýn,
Glaðlyndið prúða gefið henni
Með göfgi tignar lýsti af enni,
Sem sigurkumbl á skildi skín,
Hennar var yfirbragðið bjart,
Blíð sem á morgni Dagmær lýsir —

Fagurvaxin sem fjalladísir,
Ljettfætt hún valla láðið snart,
Og brjóstin voru hennar hveld,
Heilbrigði lypti þeim og fjör.
Hennar líkami líkt sem gjör
Af lilju' og rós, en sál af eld,
Með sumarhimni, sem að fyllir
Sætastur blær og röðull gyllir,
Ljómuðu augu af logum tveim,
Lýsti himin og jörð í þeim.
Ymist hún horfði hvast sem örn
Af himni Jóvis tignarlegur,
Eða sem dúfan yndisgjörn,
Er ástargyðju vagninn dregur.

---

Ó Axel! sára sjúkleik þjáður,
Smámsaman hörund græðslu fær,
Öri markað að utan grær,
En er þitt hjartað sama og áður?

Horfðu eigi blítt á bjarta mund,
Er batt svo viðkvæmt þína und:
þú mátt ei taka í hvíta hendi,
Hreina sem mjöll á vænu kvendi.
Hættara er sprund, enn hergnýr sá
Fyr hálfu ári í Bender dundi,
þig Tyrkir kringdu á kesjufundi
Með sverðin hvöss og bissur blá.
Heldur enn ástar orðin hlý
Enn við Púltava heyra skyldir,
þar bláreyks glóðu glossar tryldir,
Hildar klofnandi skruggu ský,
Og er þú fer um fold að reika
Fölur, og ljómar sólin heit.
Af stinnu sverði styrks þú neyt,
Stydstu ei við meyjar arminn veika,
Sjer hefur Amor ætlað hann,
Aldrei hann betri svæfil fann.

---

Ó elska heims og himins undur!
Hreinast sælunnar andartak!
Guðdóms verunnar vængja blak!
Er lífið deyfir doða blundur,
þú bót í lífsins hryggð og harmi!
Hjarta í náttúrunnar barmi!
Í hafi leytar unnin unnar
Og allar stjörnur himinrunnar.
Hver dansar kringum sína sól
Með silfurfetum pól frá pól.
Vjer eigum enn þann andann blíða.
Einsog kvöldroða sælli tíða,
þá dýrum ofar dýrðar stjörnum
Dansaði hún með engilbörnum
Við himingjallan hörpuslátt.
þar er blásalar sífelt loga
Silfurhjálmarnir ofar boga
Geislarjáfurs í himni hátt.
þá dansi húin hægt hún hnje.
Hallaðist við síns föður knje,

Þá var hún auð'g sem ímyndunin,
Allt hennar mál var hjartans bæn,
Bróðir hennar hver vera væn,
Sem ekki var af himni hrunin;
En sjálf hún fjell af sólarrein,
Og síðan var ei ástin hrein.
Enn kannast hún þó útlæg við
Í ástar kossum mistan blóma
Og engilvina heyrir hljóma
Í vísum skálda og vorsins klið.
Þá má hún aptur angri gleyma,
Einsog fjallbúinn heyrir gjalla
Ættjarðarlög, sem endurkalla
Ástarminning um fjöllin heima.

---

Runnin var sól og kyrlátt kvöld
Hvíldi á bárum vesturslóðar,
Þyrptust stjörnur á himin hljóðar
Egypzkra klerka einsog sveit.

Stjörnukrýnd jörðin vakti vær,
Hýr einsog þegar brúðin bjarta,
Með blómakerfi um hárið svarta,
Rjóðleit und brúðarblæju hlær.
Daglúin Unn á djúpi lá
Og með glampandi brosi bærðist,
Björt þegar aptanroðans færðist
Blómarós hennar barminn á.
Hver smáguð ástar áður bundinn,
Eyglóar ljóminn sem að fal,
Við tunglsskin grænan leið um lundinn
Með lítinn boga og örfamal,
Meðan ósorgar ástargalinn
Inndælis söngum fyllti dalinn:
Vellandi í skógar húmi hann
Hjelt með sönglistar ríkum brunni
Vöku nú fyrir náttúrunni,
Er Lofnar blíðan loga fann.
Sigrað af ástar sameining,
Hvert öðru sagði sína æfi.

Sjafni og heitmey einsog gæfi
Hvert öðru fríðan festarhring.
Æskustundir hann endurtaldi,
Er hann í móðurhúsum dvaldi
Úr furuþoll með þilið rauða,
Í myrkvið norður fjærri á fold,
Ræddi um ástkæra ættarmold,
Ungra systkyna harðan dauða.
Hversu fornkappa hetjuljóð
Honum tendruðu vígamóð,
Og æsti hug til hreystiverka
Honum fornaldar sagan merka;
Í draum um nætur dymmast skeið
Drengur stálklæddur fáki reið,
Og fram á óðum geystist Grana,
Glíkur Sigurði Fofnisbana,
Um vafurloga leipturhaf,
Brynhildar höll þar gnæfði glæst
Á gnýpu Hindar, báli læst,
Og víðan lagði ljómann af,

þröngdi að hjarta, heiman þaut
Hann í myrkviðar dymmast skaut,
Barngladur upp sjer bjargað gat
Í bjarkir hæzt, þar örninn sat;
Á naumri grein þar næddi gjóla,
Norðanvindinn hann ljet sjer róla:
"Hve bað eg þá að hraðfleyg ský,
Er himinskauta milli líða
Bæru mig út í veröld víða
Úr frægðarlausri kotmanns kví,
þangað er verar vopnum leika,
Valkyrjur reisa kappann bleika
Og flytja sali Óðins í.
Sjö árum Karl er eldri enn eg,
Vinnur kórónur vísa margar
Annari hönd, en hin þeim fargar,
Kærulaus jafnt sem konungleg.
Fimmtánda mínu ári á
Undi eg ei lengur móður hjá,
Grátandi í hennar faðm eg fjell

Og fór á Sljettumanna grundir.
Við vopnagný og hertól hvell
Hef eg þar lifað æskustundir.
En sæi eg fagra fugla smá,
Er fæddu sína unga veika,
Og sæi eg barnið litla leika
Um lilju reit hjá læknum blá,
Þá fannst mjer tómleg hjörfa hríð,
Í huga friðarmyndir græddust,
Einsog gullstöngum akrar klæddust,
Og börn sjer ljeku um blómgva hlíð,
Þar við kotbæjar kyrrar dyr
Stóð ungleg mey, og aptansunna
Ásjónu lýsti draumum kunna.
Er opt í svefni sá eg fyr.
Fjölbreytt í einu sælusýn
Svífur mjer fyrir hugskotsaugum,
Þó saman lyki eg sjónarbaugum,
Glaðbjart mjer allt hið innra skín,

Og María þú ert meyjar hýr
Myndin, sem að í draumnum býr".

---

Munarviknandi María kvað:
"Maðurinn hversu farsæll er!
Hann viðjar engar veit á sjer
Og hlaut með fæðing frelsi það;
Frægðarljómann með hættu, er hvetur —
Himin og jörð hann unnið getur;
Honum erum við áhangandi,
Elskunnar leiddar tryggðabandi,
Þó við hans bindum sviðasár
Með ræktarleysi græðslu hann geldur,
Við erum fórnin, — fórnar eldur
Er hann og skín við himni hár.
Prúður dó fyrir Pjetur Zar
Faðir mætur að móður dauða,
Uppfædd í höllu hjer eg var,
Þar harðúð agar þræla blauða,

Er þolandi grimmleik þeirra, er kúga,
Á þróttarleysi sjálfs sín trúa.
Víst má það sálu göfgri gremjast,
Hve geitum líkir þrælar temjast;
Sástu vort fagra fákakyn,
Er á sljettlendi ómælanda
Æðandi geystist hjörð um sanda,
Ljónstygg með hnegg og hófadyn,
Hún þekkir eigi þrældóm hót,
Reisandi eyru hún opt við stendur,
Varkár hún hræðist frelsis fjendur,
Viðrandi grönum vindi mót;
Og er ótemjur ugga grand,
Þær viðbragð taka og moldryks mökkva
Móraudum huldar burtu stökkva,
Ójárnaðar um eyðisand.
"Óbyggðar megir! yndis daga
Eigið þjer víða um græna haga,"
Svo mælti jeg og bað þá bíða,
Er bitli stýrðum hleypti eg mar,

Sem hlýðinn mig um brautir bar
Samsíða bræðra flokknum fríða,
Þeir gegndu ei, en á oss gutu
Augum drambandi og burtu þutu.
Fábreytta æfi hafði eg hjer,
Hvergi því lengur undi eg mjer.
Og nam á hesti að heyja stríð
Við skógarfreka og fjallagamma
Og fárramlega bjarnarhramma,
Og æfin þá mjer þókti fríð.
Samt þig náttúra! ei sigrum vjer,
Drottning sem þjáðar þýjar aumar.
Skjaldmær og þerna sú, er saumar,
Eðlisfar kvennlegt hefur hver.
Þarfnast stoðar sem víntrje veikt,
Vera, er sína helft ei hefur,
Helming sælunnar burt hún gefur,
Og allt að mannsins hlið er hneigt.
Óró eg kenni sára og sæta,
Og samt mjer finnst hún hjartað kæta

Eptirþrá, sem að ei má neita,
Unnunarljúfa og þó svo heita.
Af hindrun veit ei hún nje miði,
Sem himneskum jeg á vængjum liði
Frá djúpum jarðardymmu geim,
Dreymandi í bjartan guða heim.
Og hnígi aptur ofan þaðan
Yðar niður í faðminn glaðan,
Jafnaldrar ungu! eikur fríðar!
Algrænu leyti blóma hlíðar!
Þú lækur! er með ástar söngum
Í æskunni mjer skemmtir löngum,
Nú fyrst vinir! eg elska yður
Er allur sálar hverfur friður,
Og sjálfa elska eg mig nú minna,
Sem yður meira eg ann, enn þá."
Í þessu sleit hún máli og brá
Rósblæ ljettum á liljur kinna,
Varpaði öndu þungt og þagði
Og þannig allan vilja sagði.

---

Náttgalinn söng og næturhvel
Silfraði greinar geislum björtu,
Samtengdi kossinn saklaus hjörtu,
Heitur sem tár, og trúr sem Hel,
Og saman þeirra sálir runnu,
Saman í kossi varir brunnu.
Þau kysstust tveimur logum líkt,
Sem leggja upp af blótfórn hreinni,
Og saman brenna í eldsglóð einni,
Svo ber við himin bálið vígt;
Þau gleymdu heim og fleygiflóð
Fallandi tíðar grafkyrt stóð,
Því tíðin æfitíma hvörn
Dauðleikans merkjum dregur innar,
En dauðans koss og ástarinnar
Eylífðarinnar eru börn.
Elskendur sælu! þó að þá
Himinfestingin hefði sundur
Hrunið brestandi, þvílík undur
Hefðuð þjer ei mátt heyra og sjá,

Þjer hefðuð legið barm við barm,
Og vitað ei að skipting skeði
Á jarðarheims og himins gleði,
Sofandi mjúkt í ástararm. —
Svo var þeim himnesk hvíldin sú,
Hrökkur af draumnum Axel nú,
Því heitna mundi fylki för,
Við fljóð hann kvað: "Eg sver við hjör,
Við drengskap minn og manndóms styrk,
Viti það þessi himin heiði,
Helgar stjörnur á næturskeiði,
Er lýsa um skógarleynin myrk,
Sem brúðfylgd helg í húmi er skín:
Á himni og jörðu ertu mín.
Ó! mætti eg langt frá málmagný
Með þjer ástfagur svanni þreyja,
Friðsælum dali fjalla í,
Í faðmi þínum lifa og deyja;
En jeg er hörðum háður eið,
Milli brennandi brjósta tveggja

Blákalda hendi finn eg leggja
Nornina, sem að nú er reið.
Vertu ókvíðinn, enn eg kann
Eiðnum að leysast, sem eg vann.
Eg brýt hann ei, með vori vænu
Vitja jeg þín á láði grænu;
Jeg vitja þín og heim jeg hraða,
Hjartkæra brúð! og sje þig glaða,
Hugga þangaðtil hryggðarþel,
Helft minnar sálar, farðu vel!"
Svo mælti hann blítt og burt gekk óðar,
Og belti tekur fram og sverð,
Og langa hefur hættu ferð
Um lendur gylfa gerzkrar þjóðar.
Daglangt myrkviðum dymmum undir
Duldist hann, en um næturstundir
Fyrir vegstjörnu vagn hann hafði.
Víðbláins skraut um norðurheim,
Er aldrei hnígur hafs í geim.
Drottinhollur hann hvergi tafði.

Svo komst hann gegnum hættur harðar,
Og háskaleiðir fjendum vardar,
Til Hólma, þar er frelsað fjör
Fyrðar undruðust kappans góða,
Er brjef og kveðju flutti úr för
Ráðinu. sem nam ræsir bjóða. —

Harmandi María í hallar sal
Hefur upp nafnið Axels kæra,
Skógana hún það lætur læra,
Og bergmál fram í fjalladal.
"Hvað sagði hann eiðs af hörðu bandi?
Heitmey hann á í sínu landi,
Hann elskar aðra, á en heita
Ástin sjer deila? því eg neita:
Ískalda norðurættar víf!
Önnurhver tveggja missi líf,
Veiztu hve brennur suðræn sál?
Of sæfarís með banaskál.

Handan fyr jeljótt jöklabelti
Jeg þig í huga grimmum elti.
En kvaddi ei Axel ættstað fríðan
Á aldri barns og leit ei síðan?
Og þaðan langt er geysar gnýr
Gjallandi sverða, ástin flýr.
Nei! drenglund tóm, ei tálið svarta,
Á tignarenni dvelur hans,
Jeg sá úr augum elskhugans
Ofaná botn hins trúa hjarta.
Sem dagur ljósu lopti frá
Lindar tárhreinnar botninn á".

---

"Því flýrðu og hverju hjeztu í eiði?
Hörmum að særa þetta brjóst?
Saknandi eg reika leynt og ljóst,
Sem grátin ekkja um gróin leiði.
Sem dúfan líður um lopt og mar,
Leitar að vin og fær ei svar.

Æ! bjarkir skyggja, bárur renna
Beggja milli, jeg heyrist ei,
Skal eg elskhuga elta? nei!
það sæmir ei að siðum kvenna.
Sæmir það eigi? sverð eg ber,
Í svein eg ungan breyti mjer.
Optlega að hættum eg rjeð leika,
Einsog það væri tenings kast,
Við söðul gróin sit eg fast,
Og aldrei mundu skot mín skeika.
Guð því innblæs í öndu mín,
Axel! Axel! jeg kem til þín,
Jeg skal þín leita norðri norðar,
Um nótt og dag á hveli storðar,
Úr dal í dal, af strönd á strönd,
Af þjer eg eiðinn sváran særi,
Svífandi Hildar vængir færi
Örskjótir mig í Axels lönd".

---

Ætlun og framkvæmd er hjá konum
Eitt og hið sama; bráðar vonum
Brjóstin und kyrtli björt hún fal.
Og blýi og púðri fyllti mal;
Sjónpípu dauðans, bissu blá
Brá sjer um axlir skjaldmær há.
En Lofnar belti lagið viður
Leiptraði sverðið bogna niður.
Og varkár setti hún vörum nær
Skugga, sem átti skegg að þýða.
Sem skyldi einhver vilja prýða
Með raunablæju rósir-tvær.
Ástarguðnum hún áþekk var.
Er hermanns skrúða skrýddan bláum,
Á skildi dreginn fagurgljáum,
Klinias' arfi, kappinn bar.
"Farðu vel höllin feðra minna!
Með frið og ást til dyra þinna
Seinna jeg kem úr sverðadyn.
Nú má eg lengur hjer ei hýma

Hyl mig í skikkju þinni, gríma!
Unnustu færðu vænum vin".

---

Hernumdum þegar stóð á ströndum
Í hvarmi norðurheims, er svaf,
Pjetursborg, þar nú hátt við haf
Aðalból þrældóms ægir löndum.
Nú var hún lítil nærri vík.
Nýklöktu dreka jóði lík.
En eðli skilst á skrýmsli ungu,
Sólheitri skriðnu sands úr hrönn,
Sýður eitrið í höggorms tönn,
Er klofna út það teygir túngu.
Svíþjóð með járni og eldi að eyða
Útbúinn lá þar fjöldinn skeiða.
Innanum merki og málma er blika
María þá gekk og rjeð ei hika,
Og býður sig í flotaför,
Er foldu Svía mót var gjör

Einn þá svo hrópar höfuðsmanna,
því heldur starsýnt varð á svanna:
"Hættlegri sveinn! þú sýnist mjer
Svíameyjum, enn þeirra her;
Hvar sem þú reiðir Hnikars loga,
Hygg eg þeir muni ei skegg þitt toga,
þeir geta kennt þjer hildi að heyja;
Hugað er þeim við sæmd að deyja,
Býðurat grið sá grið ei þáði,
Guð og Nikulás helgi ráði!"

---

Svífandi kjölur skeiða skar
Lábrostnar öldur austurvoga,
Og aptansólar roðin loga
Svíþjóðar fjöllin mændu af mar.
þau jötnakumlin bjargstudd bíða,
þó belji straumar hafs og tíða.
Við Sótasker þeir síðan lenda,
Sæfarströndu við ástir kennda.

þar kvöddust hrygg í hinnzta sinn
Hjálmar og Ingibjörg en væna,
Er sorgin lìti rjeði ræna,
þá vinur komst í Valhöll inn.
Á sævarklett hún situr þar,
Syrgjandi minnist þess, er var.
þú Unnarsteinn! í gráum græði,
Gleymt nú þitt heitið lýðum er,
En meðan Hjálmars uppi er kvæði,
Aldregi skáldið gleymir þjer.

---

Og bær við bæ í báli stóð,
Börnin veina og hjúfra fljóð,
Flýjandi gerzkrar grimmdar klær,
Glymur herklukkna fjær og nær,
Nætur og daga, dymmgjallt hljóð,
En ei það vakti vera deydda,
Vesalings landið! köppum sneydda,
Í moldu svaf þín sigurþjóð.

En fárið býr nú bölið krappast,
Börn og öldungar saman hnappast
Með sverð, er fyr á Saxlands grund
Ruðust und Gústafs glæstu merki.
Og atgeira, er hafði herinn sterki,
Sem fór of Dana frosin sund,
Og einstök skotvopn sljó og slitinn,
Með slakan lás og ryði bitinn,
það var nú Svía eigan öll.
Liðið örfátt og illa búið.
En öruggt móti fjendum snúið.
Hugrakkt það geystist vígs á völl;
En fleina neyttu ei fjendur smeikir.
Fallbissu gusu voðareykir
Með heljar sending háklett frá.
Hjálpaði ei þar að ryðjast á,
Stráfelldir drengir hraustir hrundu
Hefndarlausir, en skotin dundu.

---

þá hleypti að járna fundi fast,
Líkastur bana Hrungnis hörðum.
Með hamarinn, í megingjörðum,
Axel fríður þar flóttinn brast.
Hjálparvættur þá verst var nauðin,
Af vopnum kappans leiptrar dauðinn.
Hann fylkir liði og eggjar ýta,
Ægilegur á fáknum hvíta.
"Standið Svíar! og heilar hendur!
Hingað er jeg af konung sendur,
Góða jeg kveðju gylfa ber,
Guð og Karl kongur með oss er!"
"Guð og Karl kongur!" óðar óp
Einsog leiptur um fylking hljóp.
Og dauðans elldborg, dymman klett,
Drengjanna ruddi fylking þjett,
þar skotbáls Gríðar skæðar slökktust.
Skálmum og líkum grundir þöktust,
Og blindur hefndar hjörinn beit,

Hvast þegar dólga flýði sveit,
Hrökkluðust ránsmenn hafs á strönd,
Hjuggu tengslin og flýðu lönd.

---

Sem hræi mettað liggur ljón,
Styrjöldin sefuð svaf í valnum,
Og máninn hám af himinsalnum
Skein á hrævallar hroðasjón.
Gekk þar Axel er láu lík
Liðinna fram með dymmri vík,
Tvö og tvö saman, ei var öld
Uppnæm að reyna faðmlög köld;
Viljirðu fastleg fangbrögð sjá,
Faðmlög elskenda horfðu ei á,
Sem með hlæjandi hýru minnast,
Hálsföng sterkari í valnum finnast,
þar hatrið dauðans kvöl, sem kennir,

Að köldum barmi fjandmann spennir:
"Gleðin hvikul og ástar yndi
Ótryggum hverfur líkast vindi,
En fjandskapur og fjöldinn nauða
Fylgir mönnum í sjálfan dauða".
Svo mælti hann hryggur húms í þey,
þá heyrði hann þungum æpt af ekka:
"Axel! gefðu mjer vatn að drekka,
Og kveð mig auma áður enn dey."
þekkti hann rödd og hljóp á hljóð
Harmþrunginn fram á kletta slóð,
Ókenndan særðan ungling lítur,
Uppvið klettinn í blóði hann flýtur.
þá brá af mána bliku mökk,
Á bleika skein; svo við hann hrökk,
Æpti og huldi höndum brún:
"Hjálpi mjer Jesús! það er hún!"

Æ! það var hún, af angri þungu
Unnustann við hún kveður hljótt:
"Gott kvöld Axel! nei góða nótt!
því hel eg finn í hjarta ungu.
Spurðu eigi hvað mig hingað dró.
Hjarta mitt ástin svipti ró.
Ó! þá dymmir að dauðans nóttu,
Og glöggvast augun sálar sjá,
Hve lítið virðist lífið þá
Og sorgirnar, er þyngstar þóktu!
Slík ást sem vor hið eina er
Með öndinni, sem til himins fer.
þinn svarinn eið eg vita vildi,
Veitt er mjer það nú guðs af mildi,
þá engla lít eg sæl í sveit
Sakleysi þitt og falslaust heit.
Vanhyggni mín þú vorkynnt lætur,
Eg veit af hjarta þú mig grætur,
Hvert tár, sem mínar moldir á

Marghrelldri fellir þú af brá,
Mjer, sem þig einlægt elskað hef,
Ástvinur ljúfi fyrirgef!
Föður eg átti ei nje móður,
En í foreldra stað og bróður
Varstu mjer Axel! eið þann sver:
Elskarðu mig þá lík jeg er?
Þú sver og ei jeg syrgja má,
Sæluna, er mesta lífið á
Hef jeg nú öðlast: er ei mitt
Andlátið sætt við hjarta þitt?
Og leggst eg ekki lík í jörðu
Landsins, sem þínar hendur vörðu?
Sjá Axel! ský hvar skyggir á
Skínandi mána, er dregst það frá,
Þá er jeg dauð og önd mín ofar
Eylífum stjörnum frelsi lofar,
Árnar þjer góðs og ástrík skín,
Einsog stjarna á vegi þín.

Útlenda rós á gröf þú græðir,
Og grös er nísta byljir skæðir,
Og sólar deyða mög, þá mundu
Mig, sem að hvíli í snjófgri grundu,
Blómgunar árin urðu fá —
Axel! nú dregur skýið frá,
Farðu vel!" Í því önd burt fló,
Unnusta greip hún hönd og dó.

---

Þá reis úr undirdjúpsins dymmu
Dauðans systir með þeli grimmu,
Vitfýrring bleik, sem vill æ vakir,
Vefur svefngrösum hár, er flakir,
Sem ýmist hrygg til himins starir,
Eða hörmug blínir jörðu á,
Með voðaglott um grettar varir,
Og grimmum tárum vætta brá.

Hún snertir Axels höfði við,
Hjeðanaf ætíð sviptur frið
Hann hvarflar — og sjer hvergi eirir —
Um hennar moldir, líkur svip,
Sem vakir yfir gröfnum grip,
Og ströndin óráð harma heyrir:
"þey! þey! þú hafsins bára blá!
Beljaðu ei svona ströndum hjá,
þína jeg sjá ei þoli strauma,
þá nýt eg ekki minna drauma;
þínar öldur við blóð sig blanda
Og bera lík til minna stranda.
Unglingi hjerna áðan blæddi,
Á hans leiði jeg rósir græddi,
því svipinn hafði hann, — sem eg veit —
Eg sæki hana í vor og efni heit.
Vífs míns þeir segja sveipa jörð
Saklausan barm, og grænka svörð
Við ljósrar lík — þeir segja ei satt,

Eg sá hana í nótt við gjögrið bratt,
Nábleik sem hel mjer þókti hún þar,
það kom af því að tunglsskin var.
Og köld á vanga, köld á munn,
því kæla norðan bljes af unn.
Eptir kallaði eg hryggur henni,
Hendinni strauk hún mjer um enni,
þar voru dymm og þungleg ský,
En þá varð aptur bjart á ný,
Og upp úr djúpi austurs runnu,
Umliðnir dagar fegri sunnu,
Sólheiðir dagar, sumarfríðir,
Hve sælar þá eg lifði tíðir!
Grænum stóð höllin há í lund,
Höllina vænast átti sprund.
Í skógnum áðan lík eg lá,
Hún lífgaði mig með kossi þá;
Hún gaf mjer aumum hjartað blíða,
Hjartað brennandi ástarþýða.

Er nákalt sefur svartri und fjöl,
Ó! sorgir grimmu! dauðans kvöl!
Þjer stjörnur! hátt á himins skeiði,
Hverfið og slökknið, sem eg beiði!
Morgunstjörnunni eg veit af,
Í ægi gekk hún blóðs í haf.
Enn rýkur blóð á ægis ströndum,
Og enn er blóð á mínum höndum".

Svo kveinar hann við Sótasker,
Í sólar upprás þar hann er,
Hann reikar úti ei um nætur,
Alltaf hann situr þar og grætur.
Einn morgun fannst hann hafi hjá,
Með hendur tengdar á bæn hann lá.
Hvítnuðum stóðu á hlýrum vænum
Hálfþornuð tár í morgunblænum,

Og á þá gröf, er geymdi ná,
Grátbrostnum augum líkið sá.

---

Þannig var sagan sorgarblíð,
Sem að eg nam í bernsku tíð.
Þrjá kann eg síðan telja tuga.
Trútt felst hún enn í mínum huga.
Með yfirbragði skíru og skörpu
Í skáldsins sál því falin býr
Bernsku minning, og brosir hýr,
Sem Áslaug fyr í Heimis hörpu;
Þangaðtil loks hún glæst fram gengur,
Goðkynjuð dylur sig ei lengur,
Með tignarskrúð, og blikið bauga,
Bjartlitað hár, og konungs auga.
En bernsku himni háum í
Hörpurnar ljóma gulls við ský.

Hvað skáldið síðan skapa má,
Hvort heldur blómum hýrum smærra,
Hávöxnum eða jötnum stærra,
Fegra í bernsku fyr hann sá.
Enn samt er vors í djúpum dali
Dyllar hljóðfagur næturgali,
Og upprís máni úr austurdjúpi,
Einsog vofa í bleikum hjúpi,
Og silfrar dali, silfrar tinda,
Með sorgarfölva dauðans mynda,
Í vindi nemur andvörp eyra,
Og enn jeg kunnug þykist heyra,
Innanum dauðans angurhljóð
Axels og Maríu sorgarljóð.

# ÁGRIP AF ÆFI TEGNÉRS.

---

Esaías Tegnér er fæddur 1782 í hjeraði því í Svíþjóð, er Wermaland heitir, í þorpinu Kyrkerud; var faðir hans prestur þar. Tegnér var snemma námfús og komst vel áfram, enn þótt hann væri fátækur. Varð hann tvítugur kennari í listafræði (Æsthetik) við háskólann í Lundi. Fjekk hann snemma mikinn lofstír, bæði fyrir kveðskap sinn og lærdóm. — 1824 varð hann biskup í Wexiö, og orkti hann minna eptir það vegna embættis anna og guðfræðis iðkana. Lagði hann þá meiri stund á kennimannlega mælsku. Stundaði hann embætti sitt af alúð, og auk þess var hann á ríkisþingi Svía. Á seinustu árum sínum varð hann mótsnú-

inn relsishreifingum þeim, er hann sjálfur hafði þekkzt, þegar hann var yngri, enda var honum eigi allt sjálfrátt, því að geðveiki stríddi á hann öðru hverju, og þjáðist hann af meini því, þangað til hann andaðist 1846.

Þó Tegnér ekki verði talinn með hinum mestu skáldum heimsins, er hann þó hið mesta og þjóðlegasta skáld Svía, og sumt það, er eptir hann liggur, hefur orðið kunnugt um allan heim. Helztu kvæði eptir hann eru, "Axel" og "Frithiofs Saga", sem nálega hver sænskur maður kann utan bókar. Er hið síðarnefnda útlagt nær því á öll mál. Af öðrum lengri kvæðum hans er merkilegast "Nattvardsbarnen", og mörg fögur smákvæði hefur hann orkt. — Vjer leyfum oss að bjóða lesendum vorum tilraun til útleggingar af hinu ágæta kvæði: "Kung Karl den unga hjelta", sem er þjóðsöngur Svía.

Karl ungur, hetjan háa,
Hilmir, í skotreyk stóð,
Hann dró út brandinn bláa,
Í böðvar gný fram óð.
Hvort sænsku sverðin bíta,
Senn skulum reyna við,
Marghreki Moskóvíta
Af móði bláklætt lið.

Einn, þar er hjörþing háði,
Harri mót tíu ljet,
Fjell hver ei flýja náði,
Frumraun það jöfurs hjet;
Við þengla þrjá í stríði
Þekktist ei piltur boð,
Evrópu allri fríði
Óskeggjað þrúðvangs goð.

Lævísi grálynd lagði
Launsnörur veg hans á,
Eitt orð þá sveinninn sagði,

Og snaran slitin lá.
Svanbrjóstuð, gullhærð gyðja
Gekk fram Aurora ný,
Ást var ei ynglings iðja,
Aptur hún snjeri því.

það sló svo hugstórt hjarta
Í hilmis sænskum barm,
Af djörfum dug nam skarta,
Drenglynt í sæld og harm.
Á heilla og hrakfalls degi
Hann hærri enn lukkan sat,
Flúið gat fylkir eigi,
Fallið hann aðeins gat.

Sjá! næturblys hve brosa
Buðlungs við minnis stein;
Og einnar aldar mosa
Auðmildings þekja bein!
Svo háleitt hvað á moldu
Hverfur að skapadóm;

Hans nafn á norðurfoldu
Nú er það saga tóm.

Hlýðir á sögu sína
Þó sögulandið enn,
Og dverga hljóðin dvína
Hjá Durnis röddu senn.
Afl norðri ennþá gefur
Sá andinn tignarhár;
Nár er hann sízt, hann sefur,
Hann svaf í hundrað ár.

Krjúp Svíþjóð! kempu mestu
Að kumli, sorgarhljóð,
Og letrið slitna lestu!
Þíns lofstírs dýrðar óð.
Berhöfðuð hinnig stígi
Heimssaga náms að mar,
Og sigurve sín vígi
Vor sænska frægðin þar.

---

# ATHUGASEMDIR.

Bls. 8. Bender. Svo heitir bær einn suður á Rússlandi, lá hann áður undir Tyrki. Þar hafðist Karl tólfti við eptir ósigurinn við Púltava. Var hann þar í 5 ár (frá 1709 til 1714) og gerðu Tyrkir vel til hans.

Bls. 9. Holofsin. Svo heitir lítill bær á Pólinalandi hjá fljótinu Drúsa, er rennur í Dnieper. Þar átti Karl 12 orrustu við Rússa 1708. Höfðu þeir þrefalt meira lið enn Svíar. Ljet Karl þá lið sitt hafa þetta orðtak: "Skömm þeim, er skjóta" og ráðast að Rússum með höggvopnum einum, vann hann þar mikinn sigur.

Bls. 12. Ukrän. Svo nefnist hjerað eitt suður á Rússlandi.

Bls. 14. Skírlífis gyðjan Diana veitti einum mennskum manni ástir sínar. Sá hjet Endymíon og var veiðimaður; dvaldi hann á fjallinu Latmos í Karíu, og var jafnan á veiðum í tunglsskini. Þá var það einhverju sinni, að hann var þreyttur, og hafði lagzt niður og sofnað útaf; þá sá Díana hann sofandi, er hún brunaði upp á himinhvolfið, til að lýsa með blysi sínu í náttmyrkrinu; stöðvaði hún þá kerruhestana, og leið niður af himnum og kysti Endymion sofandi, og hefur það engum hlotnast, fyrr nje síðar, guði nje manni. Svo segir Þeókrít:

Hún steyptist niður himnum frá
Til hinna Latmisku fjalla tinda,

Hvar gripa fjöldi ljek og lá,
Og ljet sig þar hirðis armi binda.

Bls. 19. Þegar Tyrkir að lokum voru orðnir leiðir á dvöl Karls 12 í Bender, reyndu þeir fyrst að koma honum til að fara úr landi með góðu, en er Karl þverskallaðist, rjeðust þeir að húsi því, er hann bjó í, með her manns. Hafði Karl ekki nema 20 vopnfæra menn og varðist þangað til Tyrkir báru eld að, og hús öll tóku að loga, varð hann þá borinn ofurliði og handtekinn, og þeir, er með honum voru. Fjellu af Tyrkjum rúm 200. Þetta var 1713, og er þessi bardagi, sem er svo einstakur í sögunni, kallaður: kabbalik, er það tyrkneskt orð og merkir: ljónsveiði.

Sömu bls. Púltava heitir bær í suðurhluta Rússlands. Þar vann Pjetur Zar gjörsamlegan sigur yfir Karli 12.

Bls. 24. Karl 12 rak Águst konung Sljettumanna úr landi og setti í hans stað eðalborinn mann, Stanislas Leszinsky.

Bls. 36. Alkibíades Kliníasarson hafði Eros fyrir herkumbl á skildi sínum.

Bls. 28. Nikulás er helgur maður, er Rússar trúa á sem verndarengil.

Sömu bls. Sótasker eru hjá Södermanland í Svíþjóð.

Bls. 40. Hjer er att við Gústaf Adolf, er hann barðist á Saxlandi í þrjátíu ára stríðinu, og hina frægu herferð, er Karl Gústaf fór til Danmerkur veturinn 1658. Þá voru frost mikil, og fór hann með her sinn yfir sundin til Sjá-

lands, og lagði undir sig alla Danmörku á stuttum tíma.

Bls. 55. Maria Aurora Königsmark. Hún var frilla Ágústs annars, kjörfursta á Saxlandi, og konungs á Pólínalandi. Var hún fræg um alla Norðurálfu fyrir fríðleik sinn. Sendi Ágúst hana til Kúrlands til Karls 12, árið 1702, og hugði að hún mundi fá töfrað hann, og útvegað sjer betri fríðarkosti. Hún orkti vísur til Karls og ritaði til hans smjaðurbrjef, en Karl synjaði henni áheyrnar. Hugsaði hún sjer þá að heilla hann með fegurð sinni, og sætti lagi, að láta vagn sinn verða á vegi hans, þegar hann var á skemmtireið. Stje hún ofan úr vagninum og hneigði sig djúpt, tók Karl þá kurteislega ofan og keyrði óðar hest sinn sporum og þeysti burt, en virti hana hvorki ávarps nje áheyrnar. Karl var aldrei við kvennmann kenndur, og aldrei bragðaði hann áfenga drykki, og hefur hann í öllu verið einhver hinn einstakasti konungur, sem verið hefur. Þegar hann var sjö vetra gat hann setið á hestbaki, sjö vetra skaut hann ref og á tólfta ári bjarndýr. Var þegar í bernsku hans auðsjeð hvílíkur maður hann mundi verða. Svo segir Nordenhjelm, kennari hans, að þeir hafi talast við, þegar hann enn var á bernsku skeiði:

Nordenhjelm. "Er gagnlegt að leggja sig í háska"?

Karl. "Já! en ekki um of".

Nordenhjelm. En nær virðist yður maðurinn ofdjarfur!

Karl. "Þegar hann hirðir um ekkert".

Nordenhjelm. "Það væri þá, ef til vill, bezt, að hafa sig aldrei í hættu".

Karl. "Þá mætti maður heita hjeri".

Nordenhjelm. "Er þá ekki betra að heita hjeri og lifa, enn heita ljón og deyja?"

Karl. „Nei! Þá væri svívirðing að lifa og kýs eg heldur að deyja við sæmd".

Karl hafði tamið sig mjög við alla hörku og karlmennsku. Þegar hann sat um kastalann Friðrikshald í Noregi, svaf hann um hávetur undir berum himni, og sveipaði að sjer feldinum, og sakaði hann hvergi. Duttu sumir af hermönnum hans dauðir niður þar, er þeir stóðu á verði, en enginn kveinkaði sjer, því allir sáu hvað konungur þeirra þoldi. Hann hafði sex um þrítugt þá er hann fjell (1718). Það er einsog það hafi rætzt, er hann sagði á bernsku árum sínum við kennara sinn, Nordenhjelm, þegar hann var að lesa Cæsar og Kurtius. Nordenhjelm spurði: "hvernig honum þækti Alexander?" "Honum vildi eg helzt vera líkur", svaraði Karl. "En hann varð ekki nema þrjátíu og tveggja ára", segir Nordenhjelm; "Sá hefur lifað nóg", ansaði Karl, "sem unnið hefur konungs ríki". Það er ekki ólíkt því, sem Magnús berfætti sagði: "að konung skal hafa til frægðar, en ekki langlífis".

